# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, JANÚAR 1900. Nr. 11.

## Kirkjuleg bylting í Reykjavík.

Stórtíðindi mega það heita, sem nú um áramótin bárust hingað vestr frá Íslandi, að þar í höfuðstaðnum, Reykjavík, sé myndaðr fríkirkjusöfnuðr upp á þúsund manns eða rúmlega það.

Þetta hefir víst komið flatt upp á lang-flesta. Menn bjuggust eflaust alls ekki við því, að neitt þvílíkt myndi koma fyrir, — allra sízt svona bráðlega. Það var að vísu farið að kvisast í Reykjavík í September-mánuði síðastliðnum, að einhver samtök væri þar byrjuð í þessa átt. En að svona mikið myndi úr þeim samtökum verða, að svona mikill útstraumr myndi nærri því allt í einu verða úr þjóðkirkjunni þar í bœnum, það grunaði naumast neinn þá. Samtökin hófust eftir því, sem sagt var, út af óánœgju hjá ýmsum Reykvíkingum með afskifti síðasta alþingis af lögum landsins um gjaldskyldu manna í kirkjulega átt. Sú breyting, sem þingið vildi gjöra á áðr gildandi lögum þeirrar tegundar, þótti koma hart niðr á nokkrum hluta bœjarbúa. Þetta var sú orsök samtakanna, sem næst lá. En hin vaxandi óánœgja almennings á Íslandi með þjóðkirkju-fyrirkomulagið, sú sannfœring, sem nú upp á síðkastið hefir óðum náð sér niðri í huga margra þar heima, að það fyrirkomulag á stjórn kirkjunnar sé kristindómslífinu til hindrunar og tjóns, — það er alveg vafalaust aðal-orsök

þessarar óvæntu fríkirkjuhreyfingar. Þessi orsök liggr auðvitað fjær, en hún er þó vissulega aðal-orsökin. Óánœgjan með eins lítilfjörlega lagabreyting á hinni kirkjulegu gjaldskyldu nokkurra manna og hér var um að rœða hefði áreiðanlega ekki leitt til þessara samtaka, hefði hin óánœgjan með það, sem var og er miklu meira um vert, ekki verið fyrir hjá svo eða svo mörgum.

Í skjali nokkru, sem gekk um í Reykjavík til undirskrifta, þegar fríkirkjusamtökin voru að myndast þar í haust, er líka eingöngu nefnd þessi orsök. Þeir, sem rita undir það skjal, lýsa yfir því, að þeir sé ,,óánœgðir með ýmislegt í fyrirkomulagi þjóðkirkjunnar" og sé komnir til þeirrar sannfœringar, að ,,fríkirkjufyrirkomulagið muni reynast heppilegra og sé eftir hlutarins eðli í alla staði réttara", og að fyrir þá sök vilji þeir taka þátt í stofnan fríkirkjusafnaðar þar í bœnum. Þeir segjast og vilja ,,fylgja málefni þessu fram í einum anda, með stilling og staðfestu, og gjöra allt, sem í þeirra valdi stendr, til þess að það megi fá góðan framgang og verði til eflingar sannri trú og siðgœði þeirra á meðal."

,,Ísafold" frá 29. Nóvember kemr með rœkilega ritstjórnargrein um fríkirkjuhreyfing þessa, og þar í er skjal þetta, sem þeir allir rituðu undir, er tjáðu sig fúsa til að verða með í myndan hins nýja safnaðar.

Það var sunnudaginn 19. Nóv., að fríkirkjusöfnuðrinn var stofnaðr. Fimm safnaðarfulltrúar voru kosnir til þess að hafa framkvæmdarstjórn á hendi, og enn fremr svo kallað safnaðarráð, og eru í því auk prests tveir leikmenn, sem eiga að aðstoða prestinn við barna-uppfrœðing og umsjón kristilegs framferðis í söfnuðinum. Nafn safnaðarins er: *hinn evangeliski lúterski fríkirkjusöfnuðr í Reykjavík.* Og er þá auðsætt, að ekki hafa það verið nein afbrigði frá lúterskri trúarjátning, sem ráðið hafa úrgöngu þessa fólks úr þjóðkirkjunni. Prestrinn, sem söfnuðrinn hefir ráðið til sín — fyrst um sinn til eins árs—, er séra Lárus Halldórsson, sem nú fyrir löngu er þjóðkunnr maðr. Um mörg ár þjónaði hann fríkirkjusöfnuðinum í Reyðarfirði, en hætti því starfi snemma á sumrinu, sem leið, og settist að í Reykjavík, þar sem hann nokkru áðr — um nýár í fyrra —

hafði byrjað á útgáfu mánaðarritsins „Fríkirkjunnar". Beinlínis átti hann—eftir því, sem vér vitum bezt—allsendis engan þátt í fríkirkjuhreyfingunni í Reykjavík, en líklegt er þó, að framkoma hans, svo alvörugefins gáfumanns og eindregins andstœðings þjóðkirkju-fyrirkomulagsins, bæði í rœðu og riti, hafi óbeinlínis haft áhrif á Reykvíkinga þessa, sem hinn nýja söfnuð hafa myndað. Og lítt er hugsanlegt, að þeir hefði undið svo bráðan bug að safnaðarmyndaninni, ef séra Lárus hefði ekki verið þar á staðnum.

Fyrstu opinberu guðsþjónustu sína hélt fríkirkjusöfnuðrinn í Good Templara-húsinu þar í bœnum 3. Desember, fyrsta sunnudag í aðventu. Safnaðarmenn ætla mjög bráðlega að koma sér upp kirkju.

Ef fríkirkjumenn fara vel með mál sín, sem allir kristindómsvinir auðvitað hljóta að óska, þá má óhætt segja það fyrir, að fyrirtœki þeirra verðr til góðs, — ekki að eins þeim sjálfum, heldr líka landi og lýð yfir höfuð til blessunar. Vér heyrðum í haust dómkirkjuprestinn í Reykjavík, séra Jóhann Þorkelsson prófast, greindan mann og góðan, hiklaust halda því fram, að hann vonaði góðs af fríkirkjusöfnuði þar í bœnum, ef hann myndaðist, — nýrrar lífsglœðingar í dómkirkjusöfnuðinum og kirkjulegrar samkeppni. Og þá sömu von hafa vafalaust margir fleiri kristilega hugsandi menn á Íslandi. — En ef, mót von, svo skyldi fara, að fríkirkjuhreyfing þessi leiddist óhamingjusamlega út, yrði að eins til þess að hrinda þessu fólki út úr þjóðkirkjunni, þá má þjóðkirkjan vissulega sjálfri sér um það ólán kenna. Það hefði fyrir löngu átt að vera búið að skifta Reykjavíkr-prestakalli sundr í tvær eða fleiri kirkjusóknir. Verk það, sem ætlað hefir verið einum presti í Reykjavík og á svæðinu þar í kring, er óhœfilega mikið. Hin svo kölluðu aukaverk — skírnir, hjónavígslur og greftranir — eru þar svo mörg — eftir því, sem séra Jóhann frœddi oss um í sumar, og eins og líka hlýtr að vera eftir fólksfjölda í Reykjavíkr-sókn,—að það kemr til jafnaðar eitt slíkt verk eða vel það á hvern einasta dag í árinu. Að hlaða öllum þessum aukaverkum á einn mann í ofanálag á prédikunarstarf hans, barnauppfrœðing og allt annað, sem að sjálfsögðu heyrir prestsem-

bættinu til, það er fáránlegasta óvit. Reykvíkingar ætti sannarlega að vera þess umkomnir, að halda eina þrjá presta og launa þeim sómasamlega. En því fer svo fjarri, að nokkuð þvílíkt hafi þótt í mál takanda að undanförnu, að hinn fjölmenni söfnuðr dómkirkjunnar hefir jafnvel ekki séð sér fœrt að hressa við hina auðvirðilegu og eyðilögðu girðing utan um grafreitinn sinn, eða ekki viljað leggja í þann lítilfjörlega kostnað af því að sú umbótarskylda heyrði landinu í heild sinni til, en ekki þeim sérstaka söfnuði. Þar sem svona er hugsunarháttrinn kirkjulegi orðinn, þar þarf vissulega einhver bylting að verða, svo menn neyðist til að hugsa öðruvísi. Og nú er slík bylting komin fram. Ef fríkirkjusöfnuðrinni nýi deyr ekki mjög bráðlega, sem vonanda og óskanda er að ekki verði, þá má þó vafalaust búast við því, að líf hans veki svo mikið kapp hjá þjóðkirkjusöfnuðinum í Reykjavík til framkvæmda, að hann að minnsta kosti fari nú upp á eigin býti að hirða kirkjugarðinn sinn sœmilega.

## Frá kirkjuþingi „General Councils“.

Eftir séra N. Stgr. Þorláksson.

Eg býst við, að fólk, sem kaus mig til þess að flytja þingi *General Councils* bróðurkveðju kirkjufélagsins, eigi von á, að eg láti eitthvað til mín heyra. Eg verð því nauðugr viljugr að láta það eitthvað heita. Að vísu er mér það engin nauðung, nema vegna þess, að eg er svo pennalatr; því mér var sönn ánœgja að því að sitja á þinginu. Mér hló hugr í hvert skifti, sem eg í sumar hugsaði til þingsins, enda varð eg ekki fyrir neinum vonbrigðum. Hið eina, sem var mér ógleði-efni í sambandi við þessa kosning mína bæði á þessu þingi og á undan því, var hugsanin um það, hve illa eg væri kjörinn allra hluta vegna til þess að halda uppi heiðri kirkjufélagsins sem fulltrúi þess. Eg þóttist vita, að í sambandi við mig sem fulltrúa myndi menn á þinginu gjöra sér einhverjar hugmyndir, annaðhvort illar eða góðar, um kirkjufélagið og oss Íslendinga. En mér er annt um, að aðrar þjóðir hafi góðar hugmyndir um oss. Þar sem svona stóð á, var mér því stór

hugnun að því, er mér tókst að fá séra Björn B. Jónsson frá Minneota, er kosinn var varamaðr minn, til þess að slást í förina með mér. Eg þóttist sjá í hendi minni, að þá myndi fulltrúamennskunni borgið, að minnsta kosti að því, er öll „frumstryk“ hennar snerti.

Eg lagði á stað að heiman frá Park River hinn 25. September, til þess að geta verið kominn á þingið í byrjan þess og verið við þingsetningar-guðsþjónustuna; því hinn 28. um morguninn átti að setja þingið.

Af ferðinni til Chicago segi eg ekki neitt, af því mér líðr vanalega fremr illa á járnbrautarvögnum og hugsanirnar leggjast þá ekki djúpt. — þær gjöra það nú annars ekki endranær. — Eg skal þó geta þess, að í Minneapolis þær tvær klukkustundir, sem eg stóð við þar, hafði eg tal af Ellestad presti, þáveranda formanni innri-missíónar-starfsemi Sameinuðu kirkjunnar norsku. Var hann búinn að skrifa mér áðr bréf með fyrirspurn um, hvort eg myndi fáanlegr til þess að taka köllun frá missíónar-nefnd Sameinuðu kirkjunnar, til þess að takast prestsþjónustu á hendr úti í Washington-eyjunni í Michigan-vatni. En þar er nokkur hópr af Íslendingum; svo ef eg hefði fengið það tilboð ári fyrr, þá hefði eg sjálfsagt tekið því.

Af því eg var samferða tveimr námspiltum íslenzkum frá N.-Dak., Pétri, syni Eiríks H. Bergmanns á Garðar, og Jóhannesi, syni Sigrgeirs Björnssonar að Eyford, er voru á leið til St. Peter, Minn., á Gustavus Adolphus skólann, þá fór eg með þeim þangað. Mig langaði til að sjá skólann, einkum vegna þess að íslenzkir nemendr hafa sótt hann og sœkja, og þeim er stöðugt að fjölga. Í vetr var búizt við, að þeir yrði um 13. — Eins og flestum mun vera kunnugt, þá tilheyrir hann *Augustana*-sýnódunni, kirkjufélaginu sœnska, sem stœrst er allra kirkjufélaganna í *General Council.* Skólinn er því *General Council*-skóli. Að svo margir íslenzkir nemendr sœkja menntastofnanir *General Councils* hlýtr að hafa það í för með sér, að hugr vor færist nær því kirkjufélagi.

Mér leizt vel á skólann. Hann er líka á fallegum stað, á hárri hæð fyrir utan bœinn St. Peter. þaðan er gott útsýni.

Brekkan upp að skólanum er brött og ervið. Minnir hún nemendrna stöðugt á, að námsleiðin liggr upp brekku og að enginn kemst hana, sem ekki nennir að leggja neitt á sig eða hafa fyrir því að komast hana. En einnig á það, að nemandinn á sífellt að vera að keppa upp á við, æ hærra og hærra, menntalega og menningarlega, svo sjóndeildarhringr hans stœkki. Skólinn ber það með sér, að hugsað er um, að láta honum fara fram og láta hann eftir föngum fylgja med tímanum, svo að hann geti keppt við aðrar samskonar menntastofnanir. — Ef vér ættum á skólanum góðan íslenzkan kennara, til þess að kenna íslenzkum nemendum sögu og bókmenntir Íslands, myndi vafalaust talsvert fleiri íslenzk ungmenni sœkja þangað. Gæti það orðið ómetanlegr hagr fyrir oss. Og ekki ólíklegt, að með því móti væri skólamáli voru bezt borgið svona í byrjun.

Á járnbrautarstöðvunum í St. Peter hittumst við séra Björn. Urðum við svo samferða og saman á þingið og á því. Báðir fundum við svo undr vel til þess, að það er miklu betra að vera tveir en einn. Við fórum til norskra hjóna í söfnuði dr. H. W. Roths, prestsins, sem þjónaði kirkjunni, þar sem kirkjuþingið var haldið, og héldum til hjá þeim nær því allan tímann, sem við dvöldum í Chicago. Hafði dr. Roth útvegað okkr þennan stað. Hér fór ljómandi vel um okkr. Þau hjón höfðu áðr tilheyrt norsk-lúterskum söfnuði, en gengið inn í þennan ensk-lúterska söfnuð dóttur sinnar vegna, sem lítið kunni í norsku, eins og vill verða með unglinga í bœjunum. Þau gleyma móðurmálinu sínu og verða al-ensk.

Morguninn hinn 28. var þetta 27. tveggja ára þing *General Councils* sett. Það er sem sé vanalega haldið annað hvert ár. Þrjátíu ár voru liðin frá því félagið hélt þing sitt í Chicago í fyrsta skifti. Nokkrir, sem nú sátu á þingi, höfðu setið á því þingi, á meðal þeirra prestöldungrinn og skörungrinn dr. J. A. Seiss. Að koma til Chicago þá og nú og hugsa um kirkjulega og mannfélagslega ástandið þar þá og nú — hvílíkr munr, hvílík umskifti, ekki að eins hamskifti, heldr umskifti hið ytra og innra að svo mörgu leyti! Eldrinn hafði lagt borgina í ösku, og úr öskunni hafði hún risið aftr eins og

fuglinn fönix, stórkostlegri og risalegri, en líka œðislegri en áðr, með eldinn eins og undir fótunum á sér einlægt síðan. Vöxtrinn hefir verið hér ákafr, á hvað sem litið er. Menning og mannspilling, trúrœkni og trúleysi, kristindómr og heiðindómr þroskast jafnhliða hvað öðru, öll öfl, ill og góð, í loganda samkeppni hvert við annað.

þingið var sett með guðsþjónustu eins og hjá oss, og var farið eftir hinu mikla og dýrðlega guðsþjónustuformi, sem *General Council* hefir komið sér saman um. það, sem gjörði þá guðsþjónustu og yfir höfuð allar þær guðsþjónustur, sem eg var viðstaddr, frábrugðnar guðsþjónustum hjá oss, var auk formsins það, að allir, sem gátu, *sungu með* fullróma. það voru ekki að eins raddir að heyra eins og í lítilli hvirfing hjá söngflokknum og svo þar fyrir utan á strjálingi út um kirkjuna; en allr söfnuðrinn var eins og söngflokkr og allar raddirnar hljómuðu, ekki með þunga og drunga yfir sér, heldr með lyfting í sér eins og í einni hvirfing. það var *uppbyggilegr* söngr. Hve nær ætli söfnuðirnir hjá oss læri að syngja sem *söfnuðr* og læri að losa sig við þá ljótu hugsun, að það sé nóg, ef „söngfólkið" syngr. „Söngfólkið" er þó ekki söfnuðrinn. Og ekki er „söngfólkið" komið saman til þess að halda guðsþjónustuna út af fyrir sig með prestinum fyrir hönd safnaðarins — með söfnuðinn fyrir tilheyranda og áhorfanda!

Við þingsetningar-guðsþjónustuna fór fram altarisganga presta og fulltrúa. Er það undr tilhlýðilegt, finnst mér, að altarisgangan fari fram í byrjun kirkjuþingsins. því hún er þó hinn bezti undirbúningr fyrir þá, sem sitja eiga saman á þingi. þeir hafa þá áðr setið saman við náðarborð drottins síns og styrkt sjálfa sig á því, sem kristinn maðr styrkist bezt á; geta því betr unnið að málefni hans.

þingsetningarrœðuna flutti séra G. C. F. Haas, prestr í borginni New York og forseti kirkjufélags þess í „General Council", sem „*New York Ministerium*" nefnist. Rœða hans lýsti vel hugsun þeirri, sem virtist vera ríkjandi á þessu þingi og bera allt starf þess — kirkjulegt bergmál hugsunar þeirrar, sem ræðr nú í hinum pólitiska heimi Ameríkumanna og táknast með orðinu „*expansion*". Texti hans var Esaj.

54, 2—4. Og aðal-efnið þetta: „rýmka þú út tjaldbúð þína.“ Hann benti á, að *General Council* ætti að lesa í þessum orðum spámannsins áskorun guðs til þess, um að fœra út kirkjulegar tjaldskarir sínar, auka starfsvið sitt, stœkka verkahringinn, erja og yrkja órœktaða bletti á hinum lúterska kirkjuakri. Í sambandi við þessa hugsun voru áherzluorð hans þessi orð textans: „drag ekki af“—, beittu þér öllum,—hlífðu þér ekki—; og þessi: „óttast eigi“—, berðu engan kvíðboga,—treystu drottni; því hann er með í verki. En hann tók líka það fram, að þótt vér höfum fengið köllun til þess að *fœra oss út*, þá höfum vér enga köllun fengið til þess að *flytja oss*. Á játningargrundvellinum lúterska eigum vér að standa fastir, fœra oss út *á honum*, en ekki út *fyrir* hann, og með því vitna gegn öllu játningarlega losinu og kæruleysinu, sem virðist ætla að verða svo mjög ofan á hjá nútíðarmönnunum.

Það kom líka fram á þinginu talsverðr áhugi fyrir því, að fœra sig út og að gjöra meira, en samhliða því sterk hreyfing í áttina til þess að sameina kraftana (centralisation of power). Menn fundu til þess, þeir að minnsta kosti, sem höfðu vakandi hugsun, hvað dreifðir kraftarnir væri og hvaða eyðslu það hefði í för með sér í kirkjulega búskapnum, eyðslu, sem ekkert gæfi af sér. Enda ætti það að liggja öllum í augum uppi, hvað mikla þýðing það hefir fyrir starfsmagn hins kirkjulega félagsskapar og alls félagsskapar yfirleitt, ef kraftarnir eru sameinaðir. Því dreifðari sem þeir eru, því máttminni er félagsskaprinn; en því betr sameinaðir og samhentir, því afkastameiri.

Þótt þetta sé svona ljóst, sýnist það þó full-ervitt fyrir oss, fáliðaða og fátœka Íslendinga, að sameina kraftana og vera samhentir í hinni kirkjulegu starfsemi vorri. Vér ættum því eigi að furða oss á því, þótt *General Council* lærist það ekki á einum degi, þar sem það samanstendr nú af tíu smærri og stœrri kirkjufélögum með mismunandi þjóðernis-einkunnum. Það þarf tíma til þess að vaxa og þá líka að *samvaxa*. Engan skynberanda mann ætti því að reka í rogastanz, þótt hann tœki eftir því, að þar kemr fyrir smávegis árekstr andstœðra skoðana og ekki gengr allt æfinlega eins og í sögu. Enda

hefir það heyrzt hjá oss, að þetta ætti sér stað í *General Council*, einkum að því, er til Svíanna kemr, og jafnvel líka þjóðverja. Á milli manns og konu í hjónabandinu, hinum minnsta félagsskap, er t. a. m. ekki æfinlega allt skellt og fellt, þótt samkomulagið sé í bezta lagi. það væri heldr ekki eðlilegt.

Eg verð að játa, að á þingi þessu varð eg ekki var við neinn urg í Svíum við *General Council*, heldr fannst mér lýsa sér í öllu hið bezta samkomulag og einlæg viðleitni á því að vinna saman, þótt eg vitanlega tœki eftir því, að *General Council* er ekki algjört að þessu leyti fremr en vér og þarf að læra eins og vér — *læra að sameina krafta sína* og *vinna saman*. það lýsti sér líka á þessu þingi stök tilhliðrunarsemi og nærgætni, engin tilhneiging til þess að beita ofrkappi eða einrœnu flokksfylgi við neinn. Gætum vér þar lært mikið og myndum ekki hafa illt af. Á þinginu sannfœrðist eg betr um það, að mennirnir í *General Council*, sem djúphyggnastir eru og vitmestir, eru naumast neinir kirkjulegir einstrengingar. Hér er ríkjandi ákveðin kirkjuleg grundvallarstefna; en um leið er það skilið og þess gætt, að allir eru ekki kirkjulega fremr en trúarlega jafnt þroskaðir, og að menn þurfa sinn tíma, til þess að ná þroskanum; að þeim verðr því ekki komið við alls staðar í einu — meginreglunum kirkjulegu, sem viðrkenndar eru. Eg fæ ekki betr séð en að kirkjuleg tilhliðrunarsemi og nærgætni einmitt í þessa átt einkenni *General Council* fram yfir önnur lútersk kirkjufélög hér í landi, án þess það standi í sambandi við nokkurt trúarjátningarlegt los eða stefnureikun eða stefnuleysi. því fer mjög fjarri. *General Council*-menn eru ekki síðr fastir í rásinni, að því er lúterska trúarjátning og lútersk-kirkjulega grundvallarstefnu snertir, en þeir menn, sem fastastir teljast. Og höfum vér, íslenzkir kirkjumenn, mikið að læra af þeim í þessu efni, og myndum ekki hafa mein af, þótt vér gjörðum það.

Á morgunfundi annars dags var mér, sem *fraternal delegate* kirkjufélagsins íslenzka, leyft að ávarpa þingið, og flutti eg því þá bróðurkveðju kirkjufélagsins. þeirri kveðju var tekið bróðurlega, eins og líka við séra Björn, er sömuleiðis

var leyft að ávarpa þingið, urðum ekki fyrir öðru en hinum hlýjustu bræðrahótum; enda létu margir í ljósi við okkr, hve æskilegt það væri í alla staði, ef kirkjufélag vort vildi ganga í trúarbræðra-bandalag við *General Council.* Og ætla eg að segja það hér og bið bræðrna í kirkjufélaginu að hugsa um það, að sú ósk er alls ekki sprottin af neinum eigingjörnum hvötum, enda engin ástæða til þess; — vér erum ekki svo „feitir", að ástæða sé til *þess* vegna að sækjast eftir oss; — heldr eingöngu af þeirri *eðlilegu hvöt hjá bræðrum, að hafa bræðr sína með sér*, og því *viti*, að bræðr *sameinaðir* vinna betr og áorka meiru en bræðr *aðskildir.*

það var kosinn maðr til þess að mæta á næsta kirkjuþingi voru fyrir hönd *General Councils* sem *fraternal delegate* þess, — maðr, sem oss sérstaklega ætti að vera ánægja að hafa hjá oss á þingi. það er forseti Ágústana-sýnódunnar sænsku, dr. E. Norelius, einn af elztu prestum þess, sem lifað hefir með í sögu þess kirkjufélags frá því á fyrstu kirkjulegu frumbýlingsárum þess, byrjaði sjálfr lítinn skóla í Red Wing í Minnesota, sem óx og varð að *Gustavus Adolphus College* í St. Peter, Minn., hefir verið ritstjóri ýmsra sænskra kirkjublaða og er nú að semja sögu sænsku kirkjunnar í Ameríku. Hann er að reyna að komast niðr í íslenzku og mun því þess vegna og svo líka vegna þess, að sænskan er svo náskyld íslenzkunni, geta fylgt með umræðum í málum á þingi hjá oss. Eg get ekki hugsað mér heppilegar valinn mann en dr. Norelius. Og er vonanda, að annríki hans og embættisstörf hamli honum ekki frá því að sitja með oss á næsta þingi.

(Meira.)

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

---

VII.

það var á sunnudagsmorgun, 26. Júní, að eg kom heim og sá foreldri mín og systkin. Um daginn fór eg til kirkju, þingeyrakirkju, þar sem eg átti síðast kirkjusókn áðr en eg fór frá Íslandi. Unglingr sá eg ekkert slíkt mannvirki sem þá

kirkju, er hinn myndarlegi og trúaði öldungr Ásgeir alþingismaðr Einarsson lét þar reisa. Eg gat þá ekki hugsað mér fegra musteri af manna höndum gjört. En nú urðu vonbrigði mín talsverð, enda jók það á þær tilfinningar, að fyrir atvik varð ekki af messu. Hinn útlendi samanburðr í huga mínum var mjög í óhag þessum helga klaustrstað. Tek eg þetta fram annarra hluta vegna, því hinir góðu bræðr þar heima eiga svo undr bágt með að skilja margt, sem af þessu sprettr.

Skömmu síðar, laugard. 9. Júlí, héldu Húnvetningar þjóðminningardag á Þingeyrum. — Og þá var þar vel messufært. Héraðið, eitt hið fegrsta á Íslandi, var í blóma og veðr hið blíðasta. Mikill mannfjöldi sótti þangað úr allri sýslunni og jafnvel lengra að. Allir prestar (10) prófastsdœmisins voru þar saman komnir, og þótti mér það miklu skifta. Sagt var mér síðar, að enginn myndi sá héraðsfundr haldinn hafa verið, þar sem allir prestar sýslunnar sátu í einu. Þar var og kominn hinn góði vinr Vestr-Íslendinga, Einar Hjörleifsson. Hafði hann orkt sérlega fagrt kvæði, er sungið var fyrir minni sýslunnar. Einnig var þar staddr „höfuðprestr" Íslands, séra Jón Helgason, og langaði mig einna mest til að sjá hann og kynnast honum af mér áðr óþekktum Íslendingum.

Eins og venja mun til tóku prestarnir mikinn þátt í „prógrammi" dagsins. Það er nærri eins og þjóðin þurfi prestsins einna sízt við í kirkjunum. En utan kirkju — á fundum og samkomum, í sveita- og sýslustjórn, í amtsráð og á alþingi — eru þeir sendir út af örkinni — sem hrafninn eða dúfan.

Tvær aðal-rœðurnar fluttu prestar, séra Bjarni Pálsson og séra Hálfdan Guðjónsson. Voru þær fluttar blaðalaust og mjög myndarlega. Vestr-Íslendinga minntist séra Eyjólfr Kolbeins mjög hlýlega. En sú rœða var utan prógramms. — Að ýmsu leyti fór hátíðarhald þetta myndarlega fram í meðvitund fólksins.

En frá uppbyggingarlegu og einkum frá kirkjulegu og kristilegu sjónarmiði var engin ástœða til að vera ánœgðr með það. Eru til þess ýmsar ástœður, sem ekki verða hér nefndar.

Daginn eftir hátíðarhaldið flutti eg prédikan að Blönduós,

Er kirkjan þar nýbyggð, mjög snotr og hin eina kirkja í því prófastsdœmi, sem hituð er með ofni. Má telja það stórframför. — Kirkjurnar á Íslandi þurfa að verða *heitari* en nú eru þær, jafnvel í fleirum en einum skilningi. Kirkjurnar hið ytra hafa tekið miklum framförum í síðustu tíð, þó telja megi víst, að kirkjulífið hið innra hafi á sama tíma verið í aftrför. Blönduós-kirkjan er eitt slíkt framfara-tákn. Hver, sem ber hana saman við kirkjuna á Hjaltabakka, sem er lögð niðr, en stendr þó enn, og tilheyrði hinum yngri kirkjum og var af timbri gjör, hlýtr að sjá framför, menningarvott að minnsta kosti. Auk þess mun sú kirkja sótt í betra lagi, enda lögðu sóknarmenn á sig aukagjald til þess að byggja kirkjuna, og er það spor í rétta átt. En hinu má ekki gleyma, þó smáatriði megi virðast, að einn ofn í heilu prófastsdœmi er ónógr. — Hver kirkja á Íslandi þarf að eignast ofn og vera eldtryggð. Hversu harðar og háar kröfur, sem gjöra má til prestanna, geta þeir aldrei komið í stað þeirrar hitavélar; — þeir hafa að jafnaði nóg með að hita upp prédikunarstólinn — og hjörtun, þó söfnuðrinn hiti réttilega kirkjuna.

---

Sýnishorn af endrskoðan íslenzku biblíuþýðingarinnar, sem nú er verið að vinna að, kom út snemma í sumar, sem leið, í Reykjavík. það er „*Fyrsta bók Móse*“, ásamt smábrotum af 2. og 3. bók Mósesar, sínu úr hvorri af þeim bókum; — alls ellefu hálf-arkir í 8 bl. broti. Formáli er með eftir Hallgrím biskup Sveinsson. Í endrskoðunarnefndinni eru auk biskups þeir séra þórhallr Bjarnarson, forstöðumaðr prestaskólans, og Steingrímr Thorsteinsson, yfirkennari við latínuskólann. En Haraldr Níelsson, guðfrœðis-kandídat, er sá, sem vinnr aðal-verkið við endrskoðanina, til þess ráðinn af stjórnarnefnd ísl. biblíufélagsins. Hr. Haraldr hefir um tíma í sumar, sem leið, dvalið á þýzkalandi til þess að auka þekking sína á hebresku í því skyni að verða því fœrari til að eiga við þýðing gamla testamentisins. Síðar fór hann til Kaupmannahafnar og hafðist þar við um hríð í sama tilgangi. Búizt líka við, að hann í vetr bregði sér til Englands og dvelji

þar um tíma áðr en hann hverfr aftr heim til Íslands til að halda áfram biblíuþýðingarverki sínu.

Hin nýja þýðing fyrstu Mósesbókar er vafalaust vönduð. En til þess að geta dœmt um það verk til hlítar þarf nákvæmlega að rannsaka hið prentaða sýnishorn og meðal annars bera það málsgrein eftir málsgrein saman við eldri þýðingar á íslenzku og fleiri tungumálum. Og til þess höfum vér enn ekki haft tíma. Eftir því, sem vér höfum tekið eftir, er þessi nýja íslenzka þýðing mjög lík endrskoðuðu biblíunni ensku, sem vitanlega er prýðilega nákvæm og vel af hendi leyst. Ef til vill verðr síðar meira talað um þýðingarverk þetta í ,,Sam.''

En geta má þess, að myndir sumra mannanafnanna í hinni nýju íslenzku þýðing fyrstu Mósesbókar finnast oss óviðkunnanlegar, eins og *Nóah* — í staðinn fyrir Nói —, *Rebeka* og jafnvel *Móse*. Því hvað sem frummyndunum líðr, þá hafa nöfn þessi þegar fyrir æfalöngu náð sér niðri í tungu vorri í annarri mynd og fengið þar hefðarhelgi, sem óþarft og árangrslaust er að reyna til að raska. Og ef eftir sömu reglu ætti að fara í nýja testamentinu, þá yrði menn, t. a. m., þar að nefna Pétr postula *Petros*, Pál *Paulos* o. s. frv.

Ekki er búizt við, að endrskoðan nýja testamentisins íslenzka bíði þangað til endrskoðan gamla testamentisins er lokið. Það verðr hið fyrsta farið að eiga við nýja testamentið.

## Á áramótum.

Fyrsti lúterski söfnuðr í Winnipeg er vanr að koma saman í kirkju sinni til sérstakrar hátíðarguðsþjónustu á nýársnótt. Sú samkoma er ekki haldin á vanalegum kvöldguðsþjónustu-tíma, heldr um miðnætti, rétt á undan og rétt á eftir að hin tvö ár mœtast. Þótt æfisaga þess safnaðar sé ekki löng, þá er það þó nú þegar gleymt, hve nær söfnuðrinn tók upp þennan sið. Hann sýnist nærri því hafa orðið til af sjálfum sér. Og vitanlega er þetta þó ekki nein gömul lútersk kirkjuvenja. Aftansöngvarnir, sem tíðkast á gamlárskvöld í Reykjavík og á stöku stöðum öðrum á Íslandi, hafa ekki heldr verið fyrirmyndin. Að hafa miðnætrguðsþjónustu á nýársnótt tíðkast lang-mest í söfnuðum Meþodistakirkjunnar. Og þaðan hefir siðr þessi runnið inn í marga söfnuði annarra prótestantiskra kirkjudeilda. Fyrir áhrif úr þeirri átt hafa þá einnig nýársnætr-samkomurnar í Fyrstu lútersku kirkju orðið til. En

hvað sem upprunanum líðr, þykir söfnuði þeirrar kirkju vænna og vænna um þær samkomur eftir því, sem árin líða. Miðnætrsamkoman nú á síðustu áramótum var með lang-fjölmennasta móti.

Guðsþjónustan hófst þrem fjórðungum klukkustundar fyrir miðnætti. Eins og ávallt áðr við það tœkifœri var fyrst sunginn sálmrinn: „Seg þakkir guði góðum“ (nr. 481 í sálmabókinni). Þar næst las prestr safnaðarins upp þessa biblíukafla: Sálm. 90, Sálm. 126, og Opinb. 21. 1—7 og 22, 1—10 — og flutti síðan bœn. Þá las hann þrenn ljóð eftir séra Valdemar Briem („Vor drottinn guð um aldir alda“, út af 90. sálmi: „Í draumi glöðum vér heim oss hröðum“, út af 126. sálmi, og hinn ljómanda kvöldsálm: „Dagr líðr, fagr, fríðr, flýgr tíðin í aldaskaut“). Því næst flutti prestrinn stutta rœðu, og minntist þess þá fyrst, að mannlegt líf eitt árið eftir annað væri eins og heiðarför — ferð eftir íslenzkum fjallvegi. Það er oftast varða hlaðin á heiðarvörpunum, þaðan er vötnum hallar til hinna tveggja dala, er heiðin aðskilr. Fast að einni slíkri íslenzkri heiðarvörðu væri menn í andlegum skilningi komnir nú undir miðnætti á nýársnótt. Menn sæi yfir dalinn, sem þeir væri úr komnir, því himininn væri heiðskír í þá átt. En dalrinn fram undan, þangað sem leiðin nú lægi, væri þoku hulinn. En í Jesú nafni — í lifandi trú á hann — væri óhætt að halda vonglaðr inn í þokuna, niðr í dalinn óþekkta. — Þá var minnzt á þjóðtrúna íslenzku um huldufólkið, sem einkum og sér í lagi ætti að vera á ferð á nýársnótt. Hjá því ætti samkvæmt þjóðtrúnni allt að vera fegra og fullkomnara en mennskum mönnum. Allt í ókomna tímanum er á huldu, en samt hafa menn von — og eiga að hafa hana — um að ókomni, óþekkti tíminn hafi þeim einhver enn meiri gœði geymd í skauti sínu en nokkurn tíma áðr hafa veizt. Og trygging slíkrar framtíðarvonar er mannkynsfrelsarinn Jesús — fyrir þá alla, sem láta hann ráða yfir lífi sínu. Í ljósi kristnu trúarinnar allt hið bezta í framtíðinni. Með nýju ári nýr himinn og ný jörð. — Þá var enn frem minnzt smá-atviks eins úr Laxdœla-sögu. Hólmgöngu-Bersi, sem tekið hafði Halldór, son Ólafs páa í Hjarðarholti, til fóstrs, lá sjúkr í bœ sínum og enginn í stofunni hjá honum nema ungbarnið, fóstrsonr hans, liggjandi í vöggu sinni. Fólkið hitt allt úti við heyverk. Vaggan valt um koll og sveinninn lá ósjálfbjarga á gólfinu. En Bersi gat ekki heldr bjargað. þá kvað hann:

Liggjum báðir — í lamasessi —
Halldór ok ek, — höfum engi þrek;
veldr elli mér, — en œska þér;
þess batnar þér, — en þeygi mér.“

Fóstrfaðir og fóstrsonr í þessu ástandi eru sannkallaðar ímyndir hinnar hnígandi og upprennandi kynslóðar. Og gamla árið og nýja árið, þar sem þau einmitt nú eru að mœtast, nákvæmlega samskonar ímyndir þessara tveggja kynslóða. Eins og gamla árið og nýja árið taka nú höndum saman, eins taki gamla fólkið og unga fólkið nú höndum saman — í Jesú nafni. það liggr í augum uppi, að þeir allir, sem heyra til hinni hnígandi kynslóð, gamlaárs-mennirnir, þurfa á guðlegri hjálp og frelsan að halda. En nákvæmlega sama þörfin er líka hjá þeim, sem eiga lífið eins og að sjálfsögðu fyrir framan sig, nýárs-mönnunum, unga

fólkinu, upprennandi kynslóðinni, — þótt sá sannleikr blasi ekki eins skýrt við náttúrlegum augum vorum. Út úr gamla árinu og inn í nýja árið í Jesú nafni!

Þá var klukkan nýslegin tólf. Var þá fundarhlé rúman fjórðung stundar. Og notuðu menn þann tíma til að óska hver öðrum góðs og gleðilegs nýárs og þakka fyrir gamla árið.

Að skilnaði voru sungin tvö síðustu vers af sálminum nr. 476 í sálmabókinni („Nú guði sé lof fyrir gleðilegt ár" og „Gef þú oss, drottinn, enn gleðilegt ár").

## Sunnudagsskóla-hátíð.

Sunnudagsskóli Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg hefir um allmörg ár að undanförnu haldið sérstaka hátíðarsamkomu undir árslok, oftast að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs. Nú síðast var samkomu þessari frestað þangað til sunnudaginn næsta á eftir nýár (7. Jan , 1. sd. e. þrett.), að kvöldi þess dags á vanalegum guðsþjónustutíma. Kirkjan hafði að vanda verið skreytt all-mikið fyrir jólin. Og því skrauti var hún látin halda fram yfir þessa ársbyrjunar-hátíð sunnudagsskólans. En prógramm samkomunnar var þetta : 1. Sálmasöngr, biblíulestr og bœn á sama hátt og ávallt fer fram á undan kennslu í skólanum. 2. Jólasöngr enskr („For unto us a Child is born"): Allir í skólanum, sem sungið geta. 3. *Solo*-söngr : „Fýkr yfir hæðir og frostkaldan mel" (eftir Jónas Hallgrímsson): Ein af lærimeyjum skólans. 4. Upplestr : „Spurningin mikla" (eftir Topelius): Ein af lærimeyjum. 5. Lofsöngr („Praise the Lord") : Yngri börn. 6. *Duet* : „Sem eitt sinn litin yndissjón" (eftir Steingrím Thorsteinsson): Tvær stúlkur. 7. Ávarp frá forstöðumanni skólans, prest safnaðarins. 8. Söngr : „Calm on the listening ear of night": Eldri börn. 9. Upplestr : „Kenn mér" (kvæði Richardts í þýðing Valdemars Briem): Einn af lærisveinum. 10. Söngr : „The music of the rills": Yngri börn. 11. Söngr : „Vor er inndælt, eg það veit" (eftir Steingrím Thorsteinsson): Nokkrar stúlkur. 12. Söngr : „Skín, ljósið náðar ; myrkrin grúfa grimm" (sálmr eftir Newman í þýðing Jóns Runólfssonar—sjá „Sam.", Maí-blaðið 1899) : Eldri börn. 13. Upplestr : „Hví biðr þú fyrir þeim, sem þú elskar?" (lesmálskafli eftir Monrad, í bók hans „Úr heimi bœnarinnar"): Stúlka, ungr sunnudagsskóla-kennari. 14. Söngr : „Leita, leita" (úr Der Freischutz): Eldri börn. 15. Söngr : „Sjá, himins opnast hlið" (jólasálmr, nr. 79 í sálmabókinni) : Allir.

Í ávarpi sínu minntist forstöðumaðr skólans meðal annars fornrar gyðinglegrar þjóðsögu : Þurrkr voðalegr hafði langa-lengi gengið í landinu, svo þar lá við allsherjar hallæri. Eins og vanalega á neyðarinnar tíð varð eina úrræðið að leita biðjandi til drottins. Prestar og prelátar tóku að biðja hver í kapp við annan. En ekki fékkst nein bœnheyrsla. Hinn skelfilegi þurrkr hélt áfram. Loks kom fram lítilmótlegr og ókenndr maðr og bar fram fyrirbœn eins og hinir út af hinu yfirvofanda hallæri. Og, sjá, drottinn heyrði þá bœn undir eins. Him-

ininn huldist skýjum og það féll frjóvganda regn. Bjargræði almennings var borgið. „Hver ert þú?" — spurðu stórmennin, sem áðr höfðu árangrslaust beðið — „og hvernig víkr því við, að þú gazt fengið bænheyrslu, þar sem vér gátum engu til leiðar komið með bænum vorum?" — „Eg er kennari smábarna" — svaraði maðrinn.

Þessi þjóðsaga — sagði ræðumaðr — minnir á þá sérstöku blessan, sem þeir allir hafa fyrirheit um frá drottni, er í réttum anda leiðbeina hinum ungu barnssálum á lífsins veg. Jesús Kristr er fyrst og fremst vinr barnanna. Býðr þeim á undan öllum öðrum inn í himnaríki. Og um leið og hann varar hina fullorðnu lærisveina sína við að forsmá nokkurn þessara smælingja kemr hann með þessa yfirlýsing: „Eg segi yðr, að englar þeirra á himnum sjá jafnan auglit míns himneska föður" (Matt. 18, 10). Af þessari yfirlýsing má augsýnilega ráða, að allir þeir menn, sem með réttu geta kallazt *englar barnanna* hér niðri á jörðinni, hljóti út af kennarastöðu sinni að vera sérstaklega vel settir. Og liggr þá auðvitað í þessu dýrmætr fagnaðarboðskapr til sunnudagsskólakennaranna, þeirra allra, sem vinna hið lítilmótlega verk sitt fyrir börnin samvizkusamlega og í ótta drottins. En svo ætti þá líka foreldrar barnanna og fullorðna fólkið allt að meta verk það, sem verið er stöðugt að vinna í sunnudagsskólanum, og umfram allt sýna þakklæti sitt í því, að kappkosta með guð fyrir augum sér að hafa samskonar áhrif á börnin í daglega lífinu á heimilum þeirra eins og þau, sem börnin —eftir því, sem til er ætlazt — verða fyrir í skólanum.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega,12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.